# Nokkrar rímur.

Útgefandi:

Sigurður Erlendsson

bóksali.



Reykjavík.
Prentaðar í Prentsmiðju „Frækorna“.
1906.

# Hrakningssálmur af tveimur á bát frá Gufuskálum.

*Ortur af Lýð Jónssyni.*

1. Ef þér vilduð að því gá,
elsku sjófarendur,
eg vil segja sögu þá,
sem nú barst í hendur.

2. Hljóða trega hlinningar,
hljóta kvíðann bera,
merkileg til minningar,
má hún síðar vera.

3. Efnis látum upphaf þá,
óðs með káta siði,
tveir á bát þeir sóttu sjá
silfur-plátu viðir.

4. Messa Pálus myndi þá,
minst er álas heyrum,
Gufuskálum gildir frá
gautar stála' í Leiru.

5. Röskir menn að rekka sjón
reyna þóttu naður,
Eyjólfur og annar Jón
Eyjólfson formaður.

6. Árið talda tilvísar
tímans málið rétta,
það var aldar þessarar
þrítugasta' og sjötta.
7. Var um tíma veður spakt
vari settu stundir,
fengu stjóra' af steini lagt,
stökkuls þar um grundir.
8. Sáu vel hvar sátu skip,
síldar fram um vega;
gekk upp él í sama svip,
við suðrið utarlega.
9. Það sem angur af þeim dró
ekki kom að haldi;
í vetfangi yfir sló
ofsa stórkafaldi.
10. Drafnar jóku systur sjá,
sömu rokum halda,
öskra tóku þungan þá
og þykkva skóku falda.
11. Andóf heita' af höndum tveim,
hölda þreytir setta,
upp þá sleit af ógnum þeim,
ára fleytu létta.
12. Kom þá bára bátinn í,
blinds með fárið rauða,
tapast árin önnur því,
efnið stár til nauða.
13. Jón þar bið að vanda vann,
á voga dýrum kneri,
úr hendi þýðum hafaldan
hina síðan sneri.—

14. Báran lemur bátinn og
boðinn kemur margi.
Ekkert nema austurtrog
eftir, sem að bjargi.

15. Þarna sátu þegnar tveir
á þara láturs móum,
ekkert gátu annað þeir
en ausið bát af sjóum.

16. Dags og láða skemtun skjótt
skundar á vaði hressu,
sannkallaða neyðarnótt,
nú kom að í þessu.

17. Að þeim fór í einu séð,
öldujór þó syndi,
kafald, sjórinn, myrkrið með
megnum óravindi.

18. Ójafnt mjög til ímyndar,
óttalega' í húmi,
þegar eg hjá vinum var
í væru legurúmi.

19. Meiðar knífs í mestu þrá,
marar vífs ótrauða,
hrópuðu kífs í hörmung á
herrann lífs og dauða.

20. Sorgar bauð nú votum víst
valdið auða dauða,
orgar, sauð og umveltist
aldan rauða nauða.

21. Um skammdegis eyði blund,
einhrernvegin skolar
þeim við megin morgunstund;
mátti hneigjast gola.

22. Víst á sunnan vindur blés,
voru runnar barða
upp við kunna Akranes
inst á grunni fjarða.

23. Falla sáu ferju hjá
fossa láar svaða,
skall þar háu skerjum á
skúmið grálitaða.

24. Efna fáu veittist völ,
vegs á smáu bára,
bitann þá og fiskifjöl,
fljótt upp slá til ára.

25. Lítið var til liðsemdar,
á lírujarðar palli;
í brimgarðinn upp þá bar
undan harða falli.

26. Bylgjan svöl þá bátnum réð
bylta' í möl, upp hölum
fleygði' af kjöl og muslar með
magtar fölum fjölum.

27. Tveir fullhugar lands af lýð
lund ei buga gáðu,
með öfluga manndóms tíð,
mönnum duga náðu.

28. Óðu fram í ólgu sjó,
orku ramri meður,
sterkum hrammi stýrðu sjó
stóru fram í veður.

29. Hentuglega brims af bás
bægðist þeim úr önnum,
náði' ótregur Nikulás
nauðlíðandi mönnum.

30. Sá Máfsstaði bygði bezt,
búinn sæmd og hreysti;
greiðamaður gjörði flest
gott þá sorgin kreisti.

31, Sigurður og sanna má
sinnis gæðir hressu,
Völlum þara frægur frá,
fylgdi vel að þessu.

32. Víst að rýra vandræðin
virðar hinir fóru,
aðrir þrír í sama sinn,
sem að næstir vóru.

33. Féll í lagið ferðin sú,
feigðar sviftir dofa
heim til bæjar héldu nú,
herrann allir lofa.

34. Geirarjóðar gistu þar,
gæðin bjóðast fínu,
eins og móðir að hjúkrar
enka barni sínu.

35. Nafnfrægur og nærgætinn
Nikulás þeim hlynti.
Þegna hverjir þanka minn,
þeim í neyð vorkenti.

36. Báðum þegar magnast má
máttur fjörs í æðum,
suður vega flutning fá;
fólkið býtti gæðum.

37. Dáðust snarir ýtar enn
að æfi lífs í höfum.
Höfðingjar og heiðurs menn
hýrguðu þá með gjöfum.

38. Allir fagna firðum lífs
feginleika meður;
þeir, sem sagnir þuldu kífs,
þegnar eins og skeðu.

39. Guðs og manna miskunn þeim
mjög vel kom til þarfa;
síðan þannig höldar heim
héldu lund með djarfa.

40. Hildi vana mestum af,
menta plánir skorða,
sjóli Dana silfur gaf
þeim sævar bani forða.

41. Hæst um auðan hnatta kór,
hildar verur skoði,
lífið, dauðinn, lönd og sjór,
lúta að þínu boði.

42. Dæmið þetta seggir sjá,
sem hið undarlega,
fræða rétt og fært í skrá
fari um grund og vega.

43. Þann, sem bað um ljóða lag,
líka hinir fleiri,
yrði bæði vina hag
verður þægðin meiri.

44. Mentaknáu menn og sprund
mærðin þá sem býður,
auðnu fái alla stund
æsku nái lýður.

45. Þundur þrotinn ljóða lýr
leiðist bragur manni,
sundur brotinn óðar ýr,
eyðist dagur svanni.

## Hjartnœmt sorgarkvæði.

Kvölda tekur, dagur dvín,
döpur nóttin hylur;
sáran nístir sálu mín
sorgar norðan bylur.

2. Bifast hugur, bilar fjör,
brjóstið fyllist trega,
hart um smígur harma ör
hjartað biturlega.

Síðan fyrst mig bar á braut
breiðu lífdaganna,
ýmist hef eg yndi' og þraut
átt á víxl að kanna.

4. Ungdóms blíðan vermdi vel
vorið bezt sem kunni,
því eg ekkert þrauta él
þekti' í barnæskunni.

5. Út á lífsins ólgu sjó
ýttist eg á bárum,
marg tvinnaðist mæðan þó
með fullorðins árum.

6. Jókst óblíðu boðakast
af bylgjum forlaganna.
Lífs við stríðið stóð eg fast
í straumi hörmunganna.

7. Síst það talið upp fæ alt,
er mér bar til meina.
Hjartað bæði heitt og kalt
hlaut eg stundum reyna.

8. Oft eg líka yndistíð
átti völ að fanga,

þegar gæfan blessuð blíð
brosti sæl um vanga.

9. Geðs um parta glæddist þrá,
grét eg daga' og nætur,
særðu hjarta sviftust frá
synir bæði' og dætur.

10. Misti' eg síðast meiðir fleins,
sem mér var öllum kærri,
hefir meinið annað eins
ei mér gengið nærri.

11. Hvarf mér alt í einu þá
inndælasta vonin,
þegar helja hremdi blá
hjartkærasta soninn.

12. Aldrei þess eg bætur beið
brást það eftirlæti;
hef eg velst í hrygð og neyð,
horfinn sinniskæti.

13. Hrygðin magnast, heilsan dvín
hlýt eg sjá af vinum.
Nú er þessi mæðan mín
meiri öllum hinum.

14. Dvínar fjör en dofnar hold,
dúrar hels að síga.
Valla heilum fæti' á fold
framar mun eg stíga.

15. Mín er nokkuð leiðin löng
lífs um hála dalinn
Öllu fremur en þó ströng,
upp ef væri talin.

16. Engin getur meinin mín
mýkt af heimsins lýði.

Sný eg nú í neyð til þín
náðarherrann blíði.

17. Lít þú til mín líknar hár,
lofðung bezti hæða.
Eg hef mörg á sálu sár,
sem þig bið að græða.

18. Bljúg af minni banasæng,
bæn þér sendi' eg heita:
Undir þínum verndarvæng
vil eg hvíldar leita.

19. Holdið stynur, hjartað sker
harma ljárinn skæði.
Signaður Jesús, sendu mér
sanna þolinmæði.

20. Þó eg beiska bikarinn
bergi' í þjáningunni,
síðar gefst mér svölunin,
sæt af lífsins brunni.

21. Lífs er nærri skundað skeið,
skal eg róleg vera.
Lof sé guði' í lífi' og deyð,
létt er ok að bera.

22. Öll hin þunga angistin
innan skams mun dvína;
ofan á banabeðinn minn
breið þú miskunn þína.

23. Þá ei framar mæla má,
magt vill tungu dvína,
guð eilífur fári frá,
frelsi sálu mína.

24. Kveð eg þá með kossi' og hönd,
kveð eg táradalinn.

Frelsuð lúin flýgur önd,
í fagrann himna salinn.

---

## Ríma af enskum stúdent.

Ansa' eg þannig ykkur fljóð
sem aftakið eg þegi:
gefið í ranni hér til hljóð,
heyrið það eg segi.

2. Fálki Rögnirs floginn er
fyrir stundar korni,
held eg ögn að sækja sér
sjálfu' af þundar-horni.

3, Vélið stýfði' og vængi dró,
var sem skamt til sæi,
lágt með þýfðum þagnarmó
í þungfærara lagi.

4. Þó hann lúinn þreytti sveim,
og þrekið veika skerði,
ef svo dúinn hrekst í heim
heppnin ykkar verði.

5. Að því trúi' eg öldin glöð,
orði stinga vinnur,
hvað eg nú sé hárs á mjöð,
hundslega orðinn svinnur.

6. Von er hringa verði gná,
verk þegar launin jafnar,
tilfinningarleysið lá
þeim lukku sinni hafnar.

7. Maklega undrast baugabil
breytni dáða sljóa,

að á eg þundar afla til
önd og fjöri sóa.

8. Fyrir það kaup svo vænt er víst,
vönduðum þreytast óði.
Yggs fyrir staup er ofgjört síst
eg þó sveitist blóði.

9. Einn að ljái lof til snjalt,
lasti tíu úr hófi,
heimskir lái hrósvert alt,
en hyggnir feilin prófi.

10. Og einhver næði munnur manns
mér yfir nöldra dauðum:
hér er, bræður! leirskáld lands
leiri þakið rauðum.

11. Eg hefi hress á yggjar kvon
aflað Durnis bjarga,
og upp á þessa virkta von
vandaði stöku marga.

12. Samt ei drifið mærð svo mjög
margra' er kjósa hugir;
en hygginn yfir heimskum lög
hefir, og þetta dugir.

13. Slíkt má játa fyrir flón
forþénustu súra,
að í þann máta' er ykkar bón
enn mín réttarsnúra.

14. Þar um masa þörf svo rýr
þó mér nú tilberi;
engelskt las eg æfintýr
eitt af dönsku kveri.

15. Konungs Ása kjói greitt

kom svo veginn skemsta,
og hafði Kvásis blóði bleytt
broddinn tungu fremsta.

16. Fer eg svo þilja baugabil,
brag af efnis greyi,
og læt mér skiljast lítils til
lítið duga megi.

---

17. Ljósafjarðar tróðu tjá
tilfelli skal ríma.
Englands jarðar jöfurs frá
Jakobs annars tíma.

18. Letrið saga sveit fær téð,
sem af mærð skal laga,
trúarbragða blandan með
Bretum í þá daga.

19. Evangelisk endurbót
upp þegar kom með happi,
sumir vel þar sig á mót
settu henni' af kappi.

20. Svo fyrir mengi milli bar,
megn var styrjöld búin,
helzt of lengi' á láði þar
leiðst því páfatrúin.

21. Löngum gaf það illan arð,
oft var margs að gæta;
stjórnin af því stundum varð
sterkum vanda' að sæta,

22. Eðalstandið ei hvað sízt,
átti slæmar þrætur;
hjónabandið hlutu' óvíst
höfðingsmanna dætur.

23. Aðalsmeyjar ást ef náð
umkomulaus gat drengur,
gaf hann ei um gipturáð,
glislegur þótti fengur.

24. Burtu lunka vífið vann —
veiða þóttust framann —
einhvern munk í flýti fann,
er fljótt þau vígði saman.

25. Eðalstandið stórt leið skarð,
stýrði ringum gæðum;
ektabandið einatt varð
eftir kringumstæðum.

26. Hjónabandið þetta því
þaðan af vífin gistu;
rötuðu standið armóðs í,
auð og virðing mistu.

27. Öllum leiddist óreglan,
unz meðstjórnin tyggja,
sig til neydda sjálfa fann
sömu að fyrir byggja.

28. Þótti' ei henta' að þegja við
þengils stjórnar-ráði,
parlament um sagðan sið,
samkomu hélt á láði.

29. Tilhalds sprunda téða skemd
tignir hreint afsögðu,
hafi hún stundum heyrzt þar nefnd
henging viður lögðu.

30. Grams innsigli sterki styrkt,
ströng var fororðningin:
ei svo mygli brátt var byrgt
bygða láðs um hringinn.

31. Frelsið þverrað, þetta sést,
þegna máttar rýrri,
einn ráðherrann olli mest
aðgjörð stjórnar nýrri.

32. Einka dóttir eina sá
átti geymir laga,
og mun hafa' óttast mens ef gná
mætti tjáðum baga.

33. Dáðum búna vífið var
vert til sóma' að efla,
því Lundúnaborg ei bar
djartari sunnu refla.

34. Faðirinn samt ei frétti par
fljóði neinn að unni;
stúdent skamt í staðnum var
straums frá ljómagunni.

35. Félaus var, en fékk þó nafn
framt í mentasökum,
lærdóm bar og listasafn,
langt af sínum mökum.

36. Hans var faðir höfðingi
hers af þengils lýði,
en misti glaður fjör og fé
föðurlands vegna' í stríði.

37. Meyjan unni meiðir fleins,
minst þó sást á vífi,
seims og gunni sveinninn eins
sínu meir en lífi.

38. Vildu fegin utan ef
ektastandið kanna,
en kom í vegin konglegt bréf,
kent þó föður svanna.

39. Þeim að líkum brá í brún,
bæði fyltust trega,
samt ei slíku hann né hún
hreyfði merkjanlega.

40. Hals og nönnu hrings um sinn
hyggju sorg vill buga,
vóx að sönnu varsemin,
en vendi' ei ást úr huga.

41. Þankans frelsi fastast mjög,
þeim fjötur ástar vöfðu,
yfir þeim gat hún lesið lög,
er líftjóns einnig kröfðu.

42. Kort þegar fundust kom saman
kvisti baugs og vífi,
fyrir sprundið hlyti hann
hreint að voga lífi.

43. Halur lengi heilann braut,
ef hamingja til vill duga,
hversu' hann fengi þessa þraut
þenkt að yfirbuga.

44. Víðlent stræti vonar kring
valinn hárs lét sveima,
eins hvar gæti örvænting
til einhvers látið dreyma.

45. Treysti' eg mér og síður sveins
sök að klaga en fegra,
reynt hefir verið annað eins
og ekki beytilegra.

46. Loksins svinnur leyfis bað
lávarður menta skóla,
að ganga' og finna í glæstum stað
gæðing tjáðan sjóla.

47. Hann fékk það, en nefndi ei neitt,
nema lærdómssakir,
þar í stað gat ei um eitt
yfir sem þankinn vakir.

48. Ræðum hrærði hávísan
höld og stórgöfugan,
er efni í lærðan leit hér mann
líka skarpsinnugann.

49. Glæstra menta gömlum vin,
glituðum vísdóms prjáli,
virtist henta, og var ei kyn
við hann koma að máli.

50. Flestra blekti fálu þey
fljóð þó halur kyssi,
hvort þau þektust eður ei
enginn maður vissi.

51. Margoft ræddust meira við,
og málkunnugir urðu,
lofðar gæddir gáfna snið,
gegna er þókti furðu.

52. Hirðir menja hitta þá,
herrann eitt sinn náði,
fremur venju fæð sér á
fékk nú sýnt með ráði.

53. Spurði listugt ljúfmennið,
lund hans nú hvað beygir!
sveinninn tvisti verður við
voldugs spurn og segir:

54. »Aldrei kem eg aftur hér,
eydd er sæmd og friður,
mitt eg nema fyrir fér
fái hjálp af yður«.

55. Svara þegni þitt réð hinn:
»þetta' er illa farið,«
hér næst fregnar höfðinginn:
»hvernin er því varið?«

56. Ansar hinn: »eg ást á hef
eðallegu vífi,
dáða svinnu, en döglings bréf
dæmir mig frá lífi.«

57. Herrann þegar hast gaf svar:
»hvað er slíkt að frétta,
temmilega vitlaust var
að voga sér í þetta.«

58. »Fæ eg á grun þó augum í
allvel glansi svanninn,
hentast mun að hugsa' af því
hana að ekta þannin.«

59. »Svoddan glanna stytt er starf;
styrklaus hver einn drengur
má ske annað ekki þarf
en ætla sér það lengur.«

60. »Eg kann sverja' að engin rök
eru þig stoðandi;
og að verja svoddan sök,
sómdi' ei mínu standi.«

61. »Hér við dafnar hneysa verst
hara skykkan stinna,
mínu nafni mörkuð sést,
og meðdómenda hinna.«

62. »Vitið herra« ! — ver kvað fleins —
»við er mér búið grandi,
hitt þó verra hún er eins,
og hálfu meir rasandi.

63. »Nær sem skyldi virkta víf
vera gefin manni,
sitt það gilda — segir hún — líf
svo er eg eins í banni.«

64. »Seims er láðin svo mér kær,
sem eg stund þá kjöri,
mér er áður miklu nær
mínu að tapa fjöri.«

65. «Mikið vinnur míns til blóðs
meyjar faðir nýtur,
að eðalsinnaðs faðmi fljóðs
fastan á mig slítur.«

66, »Mundi' eg hér um minna fást,
og minkaði ráðfæringin,
hefði' ei verið okkar ást
eldri' en fororðningin.«

67. »Líst mér ei á lestur þinn« —
lystugt tér mannvalið —
»þessu smeygir elskan inn,
alt er þetta galið.«

68. »Eins þó faðir íturs vífs
ykkur vildi náða,
verður það ei þér til lífs,
því má hann ei ráða.«

69. »Hér um spjalla' er héðan af seint
hefir sá óskar brekið,
því fyrir allar æðar hreint
er með þetta tekið.«

70. »Skárra' er hálfu að verja víg« —
voldugur hjaljð brýndi —
»horfðu' á sjálfur hvort eg lýg,«
og honum skjalið sýndi.

71. Tók við hinn og téða skrá
tímakorn á horfði,
lista svinnur loks nam tjá:
»Leikur er enn á borði.«
72. Hastur spyr að höfðinginn:
»hvað kann sök þá villa?
Hvað ber fyrir þanka þinn?
Þetta skilst mér illa.«
73. Þegninn slingur þá svo tér:
»það vil eg gjarnan segja,
leiðrétting ef lofið mér,
líka hinu að þegja.
74. »Þér skal eg ráða heilt og hreint«
— herrann svar réð búa —
»alt hið tjáða láta leynt
líka ef mér vilt trúa.«
75. »Sé eg vel« fær sveinninn téð
»sá er fjörs í banni,
nú sem vélar valdi með
víf af föðurs ranni.«
76. »Hvernig fer ef meyja mann
megtug nauðgan tekur;
getið þér þá haldið hann,
hér við dæmist sekur«?
77. »Gefur drótt því öfugt ans,
að orki ei slíku meyja,
kann ske dóttir megtugs manns,
er mikið hefði að segja.«
78. Gekk sem viltur ráfi í reyk
ráðgjafinn lengi og þagði,
þenkti stilt um þenna leik,
þá með undrun sagði:

79. »Leiki þetta listugt mær,
lætur hún sjá sinn vilja,
en yfir það réttur enginn nær
eg svo megi skilja.«

80. »Hindrast annars innföll slík
illa af neinum lögum,
sá til kann með sigluflík
sigrar storm í slögum.«

81. »En þessa hlýtur megtar mey
myndug vitni bæri,
að háskalítið hafirðu ei
haft neitt undanfæri.«

82. »Næðu saman seimgrund keik,
og sendir hafnar roða,
eg hefi gaman af þeim leik
útfallið að skoða.«

83. »Þar mig eggið«, þegninn tér,
»þau á hættu efni,
vona eg leggið liðsorð mér
líns og hýrri gefni.«

84. »Reyna skal« — kvað ráðherrann
»rekkar brátt hvort frétta,
víst að hal og vífi bann,
verði fyrir þetta.«

85. Leik þann skakka, baugs kvað bör
bæði kunna' og vilja;
hlýleg þakkar sveinninn svör,
svo með blíðu skilja.

86. Hann sem skrafað gat til gagns,
og gáfna notið sinna,
nú mun hafa leitað lags
línspöng hljótt að finna.

87. Mær og rekkur orð sín á
engum heyra buðu,
hér og ekki hermir frá,
hvað þau ráðslöguðu.

88. Talið skamt, sem trúlegt var,
tæmdu kveðjur blíðar;
fleira samt til frétta bar
fáum dögum síðar.

89. Dag einn reita bráins bil,
blómlega skrauti hlaðin,
föður síns leitar leyfis til
lystireisu' um staðinn.

90. Herrann gildi henni lér
heiðurs vagn og jóra,
en bauð ef vildi velja sér
vopnaða sveina fjóra.

91. Hjarta gladdist baugsól blíð,
bezt er láni treysti,
föður sinn kvaddi' í þeli þýð,
þannig búin reisti.

92. Þeirri greinir ferð ei frá
fyrri' en svanninn mætur,
staðarins einu húsi hjá
hurra vagninn lætur.

93. Stóð í glugga húss á hlið
hópur yngismanna;
storðar duggu staldra við
strönd lét greipar fanna.

94. Stúdent fríður stóð þar hjá
storðar njótum linna,
líns nam hlíðl lotning tjá
líkt og sérhver hinna.

95. Heilsaði rjóður hringaströnd,
hattinum ofan svifti,
víf greip móðugt hals um hönd,
honum í vagninn kipti.

96. Laufaþundur leiksmark það
lét sér hugnast þegi,
»við erum fundin«, fljóðið kvað,
»fyrst en skilin eigi.

97. Halur fregnar »hvað svo mér
hafið að befala«;
auðgrund gegnir: »yfir þér,
erindiskorn að tala.«

98. Býður eyri bauga senn
blakka' að herða ganginn.
kallar: »heyrið mínir menn,
mann hef eg þenna fanginn.«

99. »Varla má eg vera' þess duld,
vildi' hann burtu flana,
hjá honum á eg skrítna skuld,
skal hann út með hana.«

100. Vagninn rann á veginn nú,
vífið frétti kenda:
»hvenær annars hyggur þú,
heit þín við mig enda.«

101. »Skuli' eg efna heit mín hér —
halur gegndi fjáður —
»lindagefni leyfið mér
lítið frávik áður.«

102. Greip pístólu kvendi' og kvað:
»kæri, nei, eg þakka,
viljir stóla þú á það,
þessi leik má skakka.«

103. Máli hagar menjarein,
meið við krakasáða:
»jeg í dag skal eflaust ein
okkar kjörum ráða.«

104. Rekkur dáðugt drósa val,
dapur beiddi friðar,
»verið þér náðug víst, eg skal,
vilja þóknast yðar.«

105. Víf framkvæmdi vélaspil,
og viður fleins að gagni,
eins og dæmdur dauða til
drengurinn sat í vagni.

106. Búin vizku vissi hvar,
vefjan linna traðar
kaþólískra klerka var
klaustur innan staðar.

107. Rekkar spara' ei reisugögn;
réði ferðum svanni;
þeir svo fara að fyrirsögn
fljóðs nær þessum ranni.

108. Vagninum fljóðið frítt af gekk,
fylgdi njótur veiga,
hjalaði móðugt hún við rekk:
»hér skulum lögdag eiga.«

109. Leiddi þarna línspöng inn
lúraðan bendir geira,
þénararnir þetta sinn
þar um vissu ei meira.

110. Dellings arfi að aftni leið,
ei bar neitt til frétta;
en hvað starfar auðarheið
upp mun tíminn rétta.

111. Skorð gulls nú við skildum rekk,
skilaði ljónið hurðar,
hann prúðbúinn burtu gekk
bragna nokkuð furðar.

112. Viljið þið fá að vita hvað
ver fór Yggjar flíka,
ekki lái' eg ykkur það,
að því spurði' eg líka.

113. Hér til geymist einlægt ans,
eg svo frétti' um manninn,
rann hann heim til ráðherrans,
og ræðu vakti þanninn:

114. »Herra sælir! þiggið þér,
þökk fyrir skilnað blíðan«,
hinn eins mælir hýrt og tér:
»hvað er í fréttum síðan«?

115. »Ekkert skaðlegt eða slæmt« —
ansaði knár í brögðum, —
»nema það er nett framkvæmt,
nú, er þá um sögðum.«

116. »Herra, þekkið hal og frú,
heims er faðmar blíða,
vantar ekki nema nú
návist yðar þíða.«

117. »Sett ef prýðið samkvæmið,
svo er heillum varið,
á ei síðar illa við,
að orðum nokkrum svarið.«

118. »Fyrst þér hafið afsagt ei
orð fyrir mig að tala,
drekkið af hjá mér og mey,
mína skál án kala.

119. »Gagnlaust er ei innfall þitt« —
ansaði hinn af létta —
»eigi mér að hæfa hitt
harla vel fer þetta.«
120. Seggir hljótt á sömu braut,
síðan feta' um grundu,
drógst að nótt, en dagur þraut,
þá drykkjuhúsið fundu.
121. Hvernig náði nistisheið
njóti bráins kletta,
herranum tjáði hinn á leið,
honum leist vel á þetta.
122. Helzt má fyrna frígeð hans —
freyjur heyrið spanga —
í því dyrnar opnast ranns
inn hvar skyldi ganga.
123. Herranum lystugt halur tér,
hyrjar knúður byljum:
»kalla jeg fyrst að hittumst hér,
hvernig síðar skiljum.«
124. Nokkuð snart í brúnir brá
bragning dáðum gædda,
brúðarskarti sjálfur sá
sína dóttur klædda.
125. Drengjum varð á drykkju stans
drótt sem féll í svíma,
en hann starði' á orma sands
eyri langan tíma.
126. Ávörp tregur andann dróg,
ásýnd tignar klára,
forskillegum förfum bjó,
fleygir lofnar tára.

127. Tengda burinn hans, er heið
hringa festi' óvörum,
óhræddur en orðlaus beið
eftir fyrstu svörum.

128. Unz sig hressir hýrt við svar
hilmis makinn svinni,
orðum þessum út svo skar
eðalmóðugt sinni:

129. »Fyrst vort kæra föðurland
fætt með lund ódeyga,
hefir þá æru hér í bland
höfuð slíkt að eiga.«

130. »Mun fyrir annan meiri gikk,
en mig vill þjóð álíta,
dýrgrip þann með dára skikk
djarflega hreint ónýta.«

131. »Mun svo ráðug ærleg önd,
ætluð víst til þarfa«
fremur tjáði' og tók við hönd
tengda dýran arfa.

132. »Þú hefir unnið þetta spil,
það menn heyra mega,
víðir sunnu vorðin bil
verðugur að eiga.«

133. »Metnast eigi vinning við,
vizku lær svo haga,
að flestir megi fá af lið,
en fæstir yfir klaga.«

134. »Lát þitt makalausa pund
lofað og virt af þjóðum,
yfir því vak um æfistund
arði hrósa góðum.»

135. »Get eg ei láð þér listapar
lundur þulu flagða;
ykkur báðum vorkun var
við þó neittuð bragða.«

136. »Furðu vart mun ei þótt að,
eikar hringa beiddir,
en hafðu' á parti þökk fyrir það,
þú mig hingað leiddir.«

137. »Tali skjótt þú tældir mig,
tvískift þönkum getur,
mín hefir dóttir þektan þig
þúsund sinnum betur.«

138. Aðgæt nú þótt eg í kvöld
ykkar bikar drekki,
skulu', ei búin skifti töld,
að skár hver annan þekki.

139. Gegndi hinn: »eg hef á grun
hirðir nýtur dáða,
eðalsinnið yðar mun
athöfn hverri ráða.«

140. Hjalið dælt á hlýddi lið,
hvorugum fatast dáðir;
að svo mæltu munngát við
mágar settust báðir.

141. Bikars ornar iðan rauð,
ýta flokki snjöllum;
heim að morgni bragning bauð
borðgestunum öllum.

142. Var að drekka virða sveit
vínið náðum spilti;
háttuðu' ekki hjónin teit,
herrann svo til stilti.

143. Gríma bragna gekk frá sjón,
göfugur lítt við eyrði;
bæði' á vagninn heimti hjón
heim í bítið keyrði.

144. Nætur liðugt greiðann galt
gnóttum víns og rétta,
stórmennið í staðnum alt
stórhof sótti þetta.

145. Frægan brustu' ei föngin góð,
fleygi Rínar ofna,
veglegustu veizlu þjóð
vann í hasti stofna.

146. Hjónabandi hal og frú
herlega klerkur vafði,
varð ei grand við getið nú
gjörst hvað áður hafði.

147. Flestir undrast fleins hvað álf
féll til svoddan einum,
rétt sem Lundún hefði hálf
hrapað að neðstu steinum.

148. Hátt til æru hermdi rekk
herrann yfir borðum,
hvað sá kæru fastnað fékk
fagnaði' hann í orðum.

149. Öllum frami fleins við rjóð
frekur bætast þótti,
alment gaman af því stóð,
en engin málið sótti.

150. Karl gat alla krafta spent
kvisti baugs til æru,
svo hann varla' af mannvitsment
misti not né kæru.

151. Gáfna háum helzt varð rekk
hægt úr dufti bjarga,
á árum fáum yfir gekk
ærutröppu marga.
152. Loks án vansa merkur mann
mágs síns rúmið fylti,
fylgi hans og hamingjan
hlýlega svo til stilti.

---

153. Smekkur óma vesæls víns,
vil eg það svo kenna,
hverfur gómi muna míns,
og minkar blek í penna.
154. Fer að dalast fær ólag,
ferjan búa steina,
en að tala' um ár og dag
ekki nú skal reyna.
155. Hér má segja sveitin birst,
svín hafi baug á grönum,
bar mitt heiti biskup fyrst,
buðlung svo hjá Dönum.
156. Eigi hrósa lærð of lítt,
ljóðin smíði nettu,
þegi kjósa færð of frítt
fljóðin prýði settu.

---

# Jannesar-ríma.

Ort af

*Guðmundi Bergþórssyni.*

1. Verður herjans varabjór
við skáldmæli kendur,
dregin fram af drauma kór
í dönsku máli hendur.
2. Mig hefir beðið málmagrér.
mann á karardýnu,
eina rímu' að yrkja sér,
af æfintýri fínu.
3. Verð eg því með vísna starf
að vefja saman orðum,
hans eg geði þóknast þarf,
því var heitið forðum.
4. Varla' er þó til ferða fær
fjalars súða hestur,
ef hann væri nokkru nær,
núna þar á brestur.
5. Hvað þeim auðnan gjörir gott,
sem gjarna' að henni leita;
fyrir utan spé og spott,
spakir hennar neyta.

---

6. Það er upphaf þessa máls —
það mér bókin skýrði —
þegar kongur Friðrik frjáls
fyrsti Danmörk stýrði.

7. Stillir hélt þar stjórn með frið,
stórhöfðingja líki,
tyggja þénti tígið lið,
traust um allmörg ríki.

8. Út við skóg á breiðum bý
bjó um þenna tíma
karl einn giftur kotbæ í,
kveikist af honum ríma.

9. Áhalds hafði hann eina kú,
og ótal margt af svínum,
ól hann son við ektafrú,
í aldurdómi sínum.

10. Jannes nefndist sveinninn sá,
siðunum fátt af lærði;
daglega til dygða brá,
drafið svínum færði.

11. Ólst hann upp með æru um stund
æfin svo fram gengur;
varla tók sér væran blund,
vinnusamur drengur.

12. Lesa' og skrifa lærði seint,
með lasin striga klæði,
vandist heldur við það beint,
að vakta grýsum fæði.

13. Morgun einn þá dúr af datt,
draum í hug sér leiddi,
fánalega á fætur spratt,
föður sinn orðlofs beiddi.

14. »Borgara vera eg veit einn
út í Þýzkaveldi,
Kláus nefnist herra hreinn,
hárs sem tærir eldi.

15. »Dóttir eina' á seggur sér,
séð hafa menn ei slíka,
þá vill gæfan gefa mér.
gullhlaðs-þöllu ríka.
16. »Á stað vil eg fara fljótt,
faðir! gef mér leyfi,
að vinna megi' eg vífið mjótt
og verða borgargreifi.
17. »Ertu vitlaus« karlinn kvað,
»kyngir að þér siga,
fanturinn viltu flana' á stað,
félaus klæddur striga?«
18. »Hver mann mun þig halda grey,
húsgangs ferð vill læra,
þenktu' aldrei á þessa mey,
það er þér ofstór æra.«
19. Hann kvað engin hrykki bón,
að hindra drauminn fríða,
í kotinu bæði kvaddi hjón,
kreikar á burtu síðan.
20. Stefndi þegar á þýzka grund
þegn með skýru bragði,
hvar sem rekka hitti fund,
hann sitt áform hafði.
21. Margur að því mikið hló,
mannskaps stryk að ræddu;
skenktu sumir skilding þó,
sem skopuðu dreng og hæddu.
22. Stefndi rétt að staðnum þeim,
sem starskygn draumur spáði,
mátti' ei líta maðurinn heim,
mörkin villa náði.

23. Um síðir leit hann sveina magt
sér í móti fara;
herramaðurinn hélt á jagt,
heilsar hann þessum skara.
24. Spyr hinn ríki þornaþund,
þegar að ætt og nafni,
drengurinn kvaðst af danskri grund
drattingjanna jafni.
25. Draum sinn allan byrti brátt,
borgari verða skyldi,
fríða eignast faldagátt,
ef faðirinn játa vildi.
26. Herramaðurinn hló þá snart,
hæðandi nam ræða:
»Þú hefir sofið á heilann hart
heimsku veslings skræða.«
27. »Aldrei færðu baugabil,
biðilinn hefir hún fengið,
hann reið áðan heim þar til,
og hygg eg saman gengi.«
28. »Hafðu ráð mín, kumpán kær!
kyntu' ei neinum þetta;
borgarinn þér bana fær
brátt, ef slíkt kann frétta.«
29. Krónur þrjár af kólgu yl,
kappinn tók og spjallar:
»þær skalt hafa þarfa til
þér fyrir kostnað allan.«
30. Jannes þakkar járnabrjót,
játar svo að breyta,
skildust þeir við skógamót,
skamt var heim að leita.

31. Heldur Jannes heim í stað,
hljóður mjög í sinni;
sér hann nú að satt er það,
seztur er biðill inni.

32. Vænust jómfrú var þar hjá,
vilmælin þau binda,
fegri enga fyrri sá,
í flokki silkilinda.

33. Þenkir Jannes þá með sér,
þungt með hugsun kaldri;
ljótur draumur laug að mér,
línspöng fæ eg aldrei.

34. Um gólfið reika gjörði fyrst
gautur stáls og þagði;
öldin drakk með æru' og list,
engin til hans lagði.

35. Matar bað þá málmagrér
mætan bendir sverða,
burgeys segir: »ef borgið þér,
brátt skal það til verða.«

36. Fæðu tók með fáein orð
ferðamaðurinn hraði,
kastar síðan krónu' á borð,
kostinn betalaði.

37. »Bísna vel oss borgar þú«,
burgeys svo að víkur,
»varla muntu nízkur nú,
þó nóg sért ekki ríkur.«

38. Þagnar síðan þeirra tal,
þegn fór bekkja milli,
glöddust menn um góma sal,
af góðri krúsarfylli.

39. Kankvís síðan komst á hljóð —
kvendin mega það prísa —
biðillinn hvíslar baugs að slóð,
biður í nótt sig hýsa.

40. »Rata' á yðar rúm eg vil,
rétt með kærleiks greinum«;
þessu játar þornabil,
»það er í loftsal einum.«

41. Segir honum hvar sængin er,
sem þau skulu finnast,
hugsar Jannes hægt með sér,
hvað skal mér nú vinnast.

42. Ölvast fólk, en dagur dvín,
dregst að kvöldið líka,
biðillinn gekk með sveinum sín
svefns í skemmu ríka.

43. Jannes hvergi fékk sér flet,
fljóðs í loft upp gengur,
þar sem biðillinn hjávist hét,
hljótt rann eftir drengur.

44. Jómfrúin háttar þíð með það,
þernu' í húmi eina
ljúka hægt upp lofti bað,
þá lundur kæmi fleina.

45. Jannes stigann hljóp upp hart,
hurðu á nam leita,
hún lauk upp, en hann tók snart
haminn af sér reita.

46. Legst hann niður hjá frúnni frí,
fyrir var sparlak dregið,
sæng hafði aldrei svoddan í,
um sína daga legið.

47. Ekki sagan innir skil,
er hann gjörði' að vinna,
einhver verður auðarbil,
upp þá gátu' að finna.
48. Kvendin mega kveða þar að,
sem káta skemtan fala,
hvað þau hafa hafst þar að,
hirði' eg ei um að tala.
49. Stundu síðar stappað var
um stigann, svo þær heyra,
biðillinn kom og barði þar,
birstist þernan meira.
50. Mundlaug grípur mærin skjótt,
megnis fulla' af hlandi,
hurð upp lýkur furðu fljótt,
framan í hal steypandi.
51. Greip fyrir augun geiraþór,
grefilinn bað þær hafa;
þó hann væri þykkjustór,
hann þorði' ei hátt að skrafa.
52. Sína vekur sveina strax,
»svívirt hefir oss frúin,
hesta skulum hafa til taks,
háðung er oss búin.
53. »Hver veit nema burgeys bráður
beint og hringaselja,
hafi mér sneypu hugsað áður,
hér skulum ekki dvelja.«
54. Maðurinn burt um miðja nátt
með sinn flokk nam ríða,
svo er hann úr sögunni brátt,
samt skal hann Jannes bíða.

55. Laust fyrir dag, þá líneik svaf,
læddist hann frá brúði;
hringinn plokkar hendi af
hafnar ljóma þrúði.

56. Að morgni fólk þá vaknar við,
var þá nóg til frétta,
biðillinn var í burt með lið,
burgeys undrar þetta.

57. Héldu hann alli heljar svín
hafa verið og dára,
að hann gjörði' ei erindi sín
öðruvísi klára.

58. Enn var Jannes í þeim stað,
aftur máltíð þáði,
krónu aðra kostar það,
kætast burgeys náði.

59. Stórörlátan metur mann
meir en aðra seggi;
brúðurin tók að horfa' á hann,
hún þó fátt til leggi.

60. Hún kom auga hring sinn á
halurinn svo til stilti;
ágirndin með auðargná
ýmsum þönkum bylti.

61. Finna vill hún fleina brjót,
ef færi gefast næði;
þar kom loks hann hitti snót
hljótt við talast bæði.

62. »Hvar fékst gullið hjálmagrér
hringinn þann eg kenni« —
»í sænginni hjá sjálfri þér«,
svaraði Jannes henni.

63. Svínahirði segi' eg mig,
son af dönsku ríki;
auðnast mér að eiga þig,
og erfa linnasýki.

64. Roðnar frúin rétt sem blóð,
rekur stans á kvendi,
»svo mun fara«, sagði fljóð,
»sem þér draumur kendi.«

65. «Kalla skalt þig kaupmanns nið,
komin af dönskum lýði,
segðu þú hafir um maramið
mist þitt fólk og prýði.«

66. »Sex ár eru síðan full
sendi faðir minn frægur
til Indíalands að græða gull
gæt þess vel um dægur.«

67. »Engir komu aftur þeir,
er Örina létu hlaupa,
vill hann skips ei vænta meir,
vonina máttu kaupa.«

68. »Óspar vertu á ofnisbing
yfir þó kaupin standi,
var mér rituð vísbending,
þeir væri hér við landið.«

69. »Ekki kom þú oft til mín,
angurs ber eg trega,
kauptu þér heldur klæðin fín,
sem kosta sæmilega.«

70. »Föður mínum hér þig hjá,
hofmannlega skalt bera;
eg skal gjaldið fús þér fá,
féskygn mun hann vera.«

71. Fésjóð fékk þá hringþöll hal,
hann réð þakka sprundi;
brá sér út í breiðan sal,
þar burgeys drekka mundi.

72. »Greindu mér«, hinn gamli kvað,
»geirs þú býtir eldi,
hvað vildir þú hafast að,
hér þegar komst að veldi.«

73. »Ætlaði jeg til Indíalands«,
ungi maðurinn sagði,
»misti eg skip mitt, fólk og fans
fljótt á augabragði.«

74. Ræddi karl með reiðisvip,
réði sig ei stilla:
»þangað sendi skrattinn skip,
skeð hefir mig sú villa.«

75. »Ár eru síðan eitt og fimm,
er mér það til vildi,
þeim hefir kuggi dulan dimm,
drekt, sem ekki skyldi.«

76. »Viltu selja vonina mér,
vinur«! hann Jannes sagði,
»kunni fley að koma hér,
kaupum þessu' að bragði.«

77. »Ef hundrað dúkata hefir til taks«
hinn kvað ullur branda,
»og greiðir þú mér gjaldið strax,
gjörð skulu kaupin standa.«

78. Taldi síðan fram þar féð,
frægðarmaðurinn snjalli;
hirðar fengu handsöl séð,
hækkaði brún á karli.

79. Kom í þessu seljan seims,
sagðist boð hafa fengið,
á höfn sé kominn haukur geims,
héðan sem fyr gat gengið.

80. Hljóðnar karl, en hinn varð glaður
hetjur undrast prúðar,
kvaddi síðan komumaður
kæru' og föður brúðar.

81. Hann kvaðst verða að fara á fley
og fjárins verzla arði,
burgeys honum bauð þá mey,
og búa þar í garði·

82. Þenna kost hann þáði brátt,
þó með ríkdóm stærri;
fastnaði síðan faldagátt;
fór þá draumi nærri.

83. Bar þá hel í burt fra seim
borgarann skömmu síðar,
ungum hjónum eignir tveim,
allar dæmdust fríðar.

84. Untust þau með æru og trú
um æfi sína bæði,
lengra ekki les eg nú
lítið sögunnar fræði.

---

85. Hélt mig engin höfuðskáld
hér á ıslands grunni,
því er ei von að Yggjar sáld
yrkja úr dönsku kunni.

86. Milding himna og meyar fé,
mitt er nafnið kenda;
forlát, vinur, fáorð sé,
fær svo ríman enda.

---

## Láka-kvæði.

ort af

*Guðmundi Bergþórssyni.*

Viðlag: Sá eg siglufáka, sveima höfnum frá;
legillinn hans Láka lagði framhjá.

1. Hér er sagan harma kauna,
hvað Þorláki bar til rauna,
vildi gullskorð góðu launa,
greina skal þar frá.
Legillinn hans Láka lagði framhjá.

2. Ýtar gjöri ei að því sköllin,
aumki heldur þau tilföllin,
þó kúturinn hryti á kembings-
völlinn,
og kastaði skeiðum frá.
L. h. L. l. fr. h.

3. Aumka þetta eyjur spanga,
og upp í hæstu turna spranga,
lúðra og bumbur láta ganga,
lýðinn kalla á.
L. h. L. l. fr. h.

4. Beðið hefir hann bragna mengi,
boðin flýgi eigi lengi,
athuga þó erfitt gengi,

og til bezta' að sjá.
L. h. L. l. fr. h.

5. Kólgudýr úr kyrðum sveima,
kringum alla norðurheima,
lukkan studdi stjórnartauma,
strengir sungu þá.
L. h. L. l. fr. h.

6. Fregnin sú með flýtis böndin,
flaug um gjörvöll norðurlöndin,
eftirfylgdi stafa ströndin,
störðu margir á.
L. h. L. l. fr. h.

7. Þrjátíu skip með þundareldi,
þustu fram úr Danaveldi.
útbúin með fögrum feldi
og friðarmerkin blá.
L. h. L. l. fr. h.

8. Komu enn með kærleiksbandi,
frá keisaranum í Þýzkalandi
þrettán tylftir samsiglandi
síldarvöllinn á.
L. h. L. l. fr. h.

9. Sáust enn á síldarleiðum
sitja yfir þorska-veiðum,
hollenzkir á hundrað skeiðum,
honum vildu ná.
L. h. L. l. fr. h.

10. Síðan komu á síldardýki,
sextíu skip úr Frankaríki,
lauguð meður linna sýki,
ljómaði borðin á.
L. h. L. l. fr. h.

11. Frá Englandi komu en að nýu,
átta skip og duggur tíu,
byrjar Kári straums um stíu,
stafna gjörði slá.
L. h. L. l. fr. h.

12. Tuttugu skip frá Tyrkja leiðum,
töldust þar með flota breiðum;
indiskir á átján skeiðum,
einnin voru hjá.
L. h. L. l. fr. h.

13. Brunuðu fram á kólgu kvíum,
kurteisleg með seglum nýum,
hundruð fimm og sex af Svíum,
sigurinn vildu fá.
L. h. L. l. fr. h.

14. Fjörnjóts arfinn bylgju brota,
brunuðu fram með hvítings sprota,
áttatíu í einum flota
út af Spaníá.
L. h. L. l. fr. h.

15 Herða tóku hrannar reykinn,
Hamborgararnir komu í leikinn,
sigldu þeir, því sæt var steikin,
sjötiu skeiðum á.
L. h. L. l. fr. h.

16. Þakið var hafið út og austur,
eftir fylgdi herinn traustur,
frá Noreg komu fimmtán flaustur,
flæðar þingið á.
L. h. L. l. tr. h.

17. Allir þessir undan fóru,
og eiðinn þann við Macon sóru,

kölluðu upp með kappi stóru:
kútnum skulum vér ná.
L. h. L. l. fr. h.
18. Austan til við allann hópinn
öldin æpti sigur-ópin,
þegar litu gjarða glópinn
gladdist margur þá.
L. h. L. l. fr. h.
19. Hann var bæði stór og sterkur,
stálsleginn sem trölla serkur,
hálfar geymdi hundrað merkur,
horfði eg þar á.
L. h. L. l. fr. h.
20. Þá varð margur lúinn í lendum.
léku þó í huga brendum,
ótal króka í kaðalendum,
keyrðu borðum frá.
L. h. L. l. fr. h.
21. Hann var þá sem fugl úr festum
flýi undan ófrið mestum,
rásaði framar ránar-hestum,
og rétti upp trektar krá.
L. h. L. l. fr. h.
22. Ýmsir byssum að honum skutu,
svo úr honum báðir tappar hrutu,
sinn í hverja sundrung flutu,
sumir eltu þá.
L. h. L. l. fr. h.
23. Setti er það fyrir sjónir lýða,
sannleikanum er bezt að hlýða,
gjörður úr silfri' og gulli víða,
glóði stútinn á.
L. h. L. l. fr. h.

24. Vaskur kaskur var ótiginn,
vildi eg aldrei reynast lyginn
þá bólgínn dólginn bar við skýin
blótaði margur þá·
L. h. L. l. fr. h.

25. Vindur hvarf, en veðrið kyrði,
völlinn síldar ísinn byrgði,
úti fyrir Eiríksfirði
allur herinn lá.
L. h. L. l. fr. h.

26 Það hef eg frétt með söngnum sönnum;
sú er bygðin þakin fönnum,
í Grænlandi hjá galdramönnum
geymist kúturinn sá.
L. h. L. l. fr. h.

27. Skipin drógu sig þá saman,
sigling hafði lítinn framann,
þá var úti gleði' og gaman,
sem geta nærri má.
Legillinn hans Láka lagði framhjá.

---

## Einbúa-vísur.

*eignaðar*

*Sira Benidikt Jónssyni á Bjarnarnesi.*

1. Karl ógiftur einn réð á
einverunni að klifa,

hann kvað það þunga kvöl og þrá,
konulaus að lifa.

2. Hvað forsjónin hefir sett
hingað til að vinna
einn fyrir utan ekta stétt,
eg því hlýt að sinna.
3. Mig hefir engin falda-fit
né frúin viljað taka,
síðan eg fékk á svönnum vit,
sér til ektamaka.
4. Eg er því um afturkast
einsamall á fæti,
sokkur og skór í sundur brast,
sjálfur einn eg bæti.
5. Íleppana einn eg vind,
einn eg skóna þvengi,
einn eg að mér brækur bind,
og buxur upp eg strengi.
6. Alla vorsins úti stund
er eg á velli' að berja,
súreygður í sama mund
sjá um hann og verja.
7. Einn til sauða ætíð fer,
einn tilhleypi og stía,
einn eg lömbin að mér ber,
einn eg tel og kvía.
8. Einn eg mína aska og trog
úti þvæ í tjörnum,
einn eg kindi á eldi log,
undir mjólkur hvernum.
9. Einn eg síðan eldinn fel,
inn í búrið dratta,

einn eg set á síu þel,
síðan fer að skatta.

10. Alt sumarið út í gegn
einn eg þúfur kroppa,
helzt þá úti' er rosi og regn
reiti' eg græna toppa.

11. Einn eg baka einn eg bind,
einn eg geng með byrði,
einn eg tyrfi' og tengsli vind,
töður og einghey hyrði,

12. Einn eg hugsa' um eldivið,
einn eg ber í hripi,
einn á völlinn reynum ryð,
róla eg einn á skipi.

13. Einn eg set það upp í naust,
enn þótt stærra væri,
einn eg ber heim orða laust
öll mín veiðarfæri.

14. Einn eg slátra einn eg sýð
einn eg kjöt uppfesti,
einum mér þar upp á býð
allan lauk og þvesti.

15. Einn eg sit við öskustall,
einn eg slógið kroppa,
eldinn tendra' eg einsamall,
einn eg fleyti' og kokka.

16. Einn eg soðið alt upp lep,
áður en sný til gátta,
einn eg lýsnar af mér drep,
einn svo fer að hátta.

17. Einn í blundinn eg þá hníg,

einn eg vakna og kveina,
einn í koppinn minn eg m. .
og mezt ei um við neina.

18. Aftur að sofna er mér kært,
er þá hálfnuð gríma,
einum lítt mér verður vært,
vaki eg langan tíma.

19. Einn eg róla út og inn,
einn á nótt og degi,
einn eg tíni, einn eg finn,
einn eg tala og þegi.

20. Einn eg tíni og aftur tek,
einn eg leysi hnýti,
einn eg hósta, einn viðr. . .
einn eg geispa og snýti.

21. Kýrnar bind á klafann eg,
klára fjós og brynni,
læt í meisa, mjólka, gef,
mæddur af heysóttinni.

22. Einn eg sauma, einn eg snið,
oft þó saumur flái,
einn eg er svo ár og síð,
að öllu mínu stjái.

23. Leiði' eg mína lund þar í,
lítt þó um mig varði,
einn þó sé eg upp frá því,
úti' í kirkjugarði.

24. Láti þeir vel líka sér,
línspöng sem að hljóta,
vandlifað þeim virðist mér,
vel sé þeim, sem njóta.

25. Þó eg gangi einn til alls,
aldrei skal mig gifta.
Hér skal niður kífið karls
kljáð til þagnar lykta.

---

## Ríma *af einni* Bóndakonu.

1. Dvalins læt eg dælu-jór
dragast tals úr sandi,
vatnsdaufur þó bifurs bjór,
berist að heyrnar landi,
2. Góðkunningi bar mér blað,
bón sú þar með fylgdi,
þegar eg liti' og læsi það,
í ljóð upp setja skyldi.
3, Skilaði fyrir merkan mann,
er mætar dygðir prýða,
sagði að heiti Þorvald þann,
þektann góðu víða.
4, Mín er næsta mentin stöð,
að miðla sónar blandi,
fyrstu neita klénri kvöð,
kalla' eg ógjörandi.
5. Máltak gamalt mun eg því.
mér til dæmis kynna,
að geitakofa ei sé í,
ullu gott að finna.
6. Svo fer það, et mætti mig,
maður nokkur biðja,
fjalars staupi fyrir sig,
fram til gamans ryðja.

7. Einu ef gengur á annann fast,
ótamt verk að gera,
mér þykir hann eigi' að ábyrgjast,
þó örðugt kynni að vera.
8. Það er til bóta þetta sinn,
þrösts á bát ef damla,
hér raskat ekki ritningin,
né rengist Credó gamla.
9. Veit eg mér er varla hent,
að vanda ljóða iðju,
þetta svarar minni ment,
mærðar dikta' í smiðju.
10. Þann sem bað um boðnar-pel,
þá böguna gjöri þylja,
bið eg hann að virða vel,
og vansemd kærleiks hylja.
11. Af historíunni heyri' eg það,
heims um bygðar slotin,
vera mun, og víst er það,
víða pottur brotinn.
12. Varhygð þyrfti' um veraldar tíð,
að vera hugföst manni,
alloftast því ár og síð,
alvara fylgir gamni.
13. Þann sem vald og vizku ber,
með völtum heims fögnuði,
sér líkastur satan er,
að svíkja hann frá guði
14. Sjá má ríkann svo sem hinn,
í synd og girndum röngum,
opt er frómlynd fátæktin,
þó foröktuð sé löngum.

15. Voldugur drottinn veitir ráð,
vesælum frómum lýðum,
vélin snúist hafa í háð,
hja hrekkjamönnum tíðum.
16. Ef menn vildu eftir sjá,
út af spektar næmi,
í mörgum sögum mundi þá,
mega þar til dæmi.
17. Viðlíkt efni eitt eg hef,
auðs af fríðri línu,
í frostasnekkjur fram á bréf,
fært að gamni mínu.
18. Rósamunda merka tel,
mætti hún slíkum órum,
dygg í ráðum dugði vel,
dómurunum fjórum.
19. Í þeim kveiktist amors girnd,
auðs til gnár í fyrstu,
svo varð frá þeim sæmdin spyrnd,
að silfurgjaldið mistu.
20. Aldrei meir sitt biðu barð,
brjótar mundarfanna,
erindisleysa úr því varð,
og afsjón peninganna.
21, Illa byrjað oftast nær,
ilt með setning röngum,
illan líka orðstýr fær,
illa bjargast löngum.
22. Mannsöngs glósa máls af krá,
mun að ending hneigjast,
historíuna hlýðið á,
hún skal nú fram segjast.

---

23. **Bónda einum byrti' eg frá,**
brúði átti fróma,
álits fríð var auðargná,
untust þau með sóma.

24. Fátækur var brjótur brands,
bú þó halda mundi,
foldin sögð er fullu bands,
fegri hverju sprundi.

25. Þar sem hún kisa alhvít er,
orðshátt gamlan kenni,
skinnamakarinn skrifast hér,
skunda þangað nenni.

26. Svo hefur gengið oft til enn,
enga þó til nefni,
girnst hafa löngum margir menn
motrar fagra gefni.

27. Í einum stað þar allskamt frá
einn var borgmeistari,
sem bóndi og þessi bauga-ná
búskaps hreyfðu pari.

28. Brann í ástar girnd hinn gildi,
gautur ljósa hylja,
merkja lætur hadda hildi,
hann sinn fulla vilja.

29 Sama staðar kirkju klerkur,
kom á tal við hana,
ofur hægur og umgangs merkur,
eftir þeirra vana.

30. Innilega brúði bað,
að bjarga sér nú viður,
studdur vizku stilti að,
og steypti' ei mörgu niður.

31. Falleg þótti faldabrík,
fýsn ei parið heftir,
þó hún sé ei af reitum rík,
rak honum girndin eftir.

32. Býfógetinn bar upp slíkt,
bað sinn vilja hylli,
allir töluðu lágt, en líkt,
lítið bar á milli.

33 Nú voru þrír að tala til,
tvinna blíðrar gefni,
engu lofaði bauga-bil,
við bónda' er sagt hún nefni.

34. Mér er, tér hann, til og frá,
ef tignar fengi' eg klæði,
fyrst mig stríðir fátækt á,
félaus erum við bæði.

35. Vænti' eg ei sé vandalaust,
voldugum alls að synja,
beiskist þeirra blíða raust,
brátt á hefndir dynja.

36. Því er mér hugur að þóknast heldur
þessu yfirvaldi
en í þeim kvikni ilsku eldur,
svo okkur verði að gjaldi.

37. Veigs hvað niftin viturlig,
vafin snild og dáðum,
mun eg leysa mig og þig,
ef mínum hlýðir ráðum.

38. Breyttu' ei af þeim býð eg þér,
bóndinn hlýddi og þagði,
annars skeður okkur hér,
ektabrot, hún sagði.

39. Fyrða láttu fá það spurt,
fold kvað elda rínar,
að reistur sértu í bæinn burt,
að borga skuldir þínar.
40. Í leyndum heima ligg þú hér,
í laumi kyr þar eirir,
en ei lengra í frá mér,
en orð mín gjörvöll heyrir.
41. Þá seggir koma í sæng hjá drós,
seyrðir amors línu,
þú sér ei inni loga ljós,
lengur í húsi mínu.
42. Berja skaltu á bustarhjört,
og bið mig upp að ljúka,
orð þín séu' ei blíð né björt,
blótaðu' og nefndu púka.
43. Kannske vinna klæði þér,
kunni eg með þeim ráðum,
en ektaskapar æran hér,
okkur haldist báðum.
44. Síðan reisti bóndinn burt,
í bæinn upp á veginn;
borgmeistarinn það brátt fékk spurt
og brá við hjartans feginn.
45. Fann og heilsar falda-gná,
fagurt bað og lagði,
haukastéttir herðar á,
hún, já, döpur sagði.
46. Kættist af því komið var húm,
kveikt var ljós í ranni,
fór hann upp til fljóðs í rúm,
fötin geymdi svanni.

47. Þegar hann hugði að krjúpa' á
kné,
kvöldbæn' máské þylja,
slökkti hún ljós, sem sagt er sé,
samt að beggja vilja.
48. Hart var barið högg á dyr,
svo heyrði víf og gestur,
vildi hann þá ei vera kyr,
því vinnutímann brestur.
49. Bísna reiður bóndinn var,
blóti gjörði flíka,
ströndin guls ei stóð við par,
strauk hún ofan líka.
50. Upplauk dyrum auðarlaug,
ei varð fyrirstaðan,
á bak við þau í burtu smaug,
borgmeistarinn þaðan.
51. Komst hann svo á flótta-för.
fyrr en leikið hafði,
ómak fái ein sú spjör,
utan á honum lafði.
52. Hefði' í dyrum logað ljós,
og lýst verið eftir honum,
mundi þá hans mesta hrós,
minkað hafa að vonum.
53. Fljóðið geymdi fötin öll,
féll að hennar ráðum,
bóndinn legst og bauga-þöll
bæði' í sæng með náðum.
54. Kvöldið annað kemur þar,
klerkur að hitta svanna,
kinkaði kolli' og klókur var,
kvað sér mundi' ei banna.

55. Kirkjumaður kvendi hjá
kunni blítt að láta
en því tekur auðar-gná,
öllu' í sniðin máta.

56. Lét svo þar til lykta skraf,
lágt við þöllu seima,
fötum öllum fór hann af,
og fékk henni þau að geyma.

57. Hann er komin í hjónasæng,
hún nam ljósið slökkva,
barið var högg á hússins væng,
hart með blótið dökkva.

58. Lézt stórreiður bauga-bör
bað hana upp að ljúka,
annað þorði ei auðarvör,
en til dyra að strjúka.

59. Í laumi prestinn varar víf,
svo voða forðast kynni,
eg hygg að bóndinn hafi þitt líf,
ef hittir hann þig hér inni.

60. Líneik tekur loku frá,
en lundur oturs gjalda,-
hleypur inn, sem hraðast má,
í hús til eyju spjalda.

61. Hræddur prestur hokin stóð,
hafði ei náð til fata,
leizt honum sízt fyrir líf né blóð,
liðug mundi gata.

62. Bar því harðast böl og sút
í brjósti um tilstand nauða,
hleypur til og arkar út,
upp á líf og dauða.

63. Prestur í því flatur féll,
þá framhjá gjörði keyra,
grunaði bónda, og gaf honum
skell,
hann gat ei náð til meira.
64. Með svoddan móti sagði happ,
sér heim flýta lysti,
þakkaði lukku það hann slapp,
þó að fötin misti.
65. Á leiðinni hvað lafði fraus,
lukka var það toldi,
líka sveið í lamdan daus,
svo lengi ei sitja þoldi.
66. Þriðja kvöldið þegar í stað,
þangað mærð vill sveima,
býfógetann bar þar að,
en bóndinn sást ei heima.
67. Talar hann við tvinnabrú,
tók að hressa geðið,
heilla lífið lofa mér nú,
sem lengi hef eg þig beðið.
68. Föl lézt ekki faldagná,
fagurt þó hann léti,
svo kom loks um síðir þá,
sagt er hún góðu héti.
69. Feginn kastar fötum hann,
flýtir sér að hátta,
lék alsollinn, vona vann,
veigsól mundi þar nátta.
70. Líneik slökkti ljósið þar,
lézt sig viljug géfa,
bustar-hjörts á bringu var
barið högg með hnefa.

71. Hræðslu stóra hringþöll bar,
hugsar aðferð slíka,
bál forreiður bóndinn var
og blótaði nokkuð líka.

72. Til dyranna gengur dreiglagná
dygg frá loku ýtir,
bóndinn inn í bæinn þá,
brá sér strax með flýtir.

73. Af gesti rennur gleðin þá,
gafst ei tóm að klæðast,
bakatil við baugagná,
bar sig út að læðast.

74. Hræddum tókst það geira grér
að get laumast þaðan,
en sú kvöl í brjósti ber,
bætti ei fata skaðann.

75. Í nætur myrkri og nógri eymd,
nú varð heim að róla,
en fötin voru hjá fljóði geymd,
frá eg það harðan skóla.

76. Ýmist gekk hann eða skreið,
óttaðist vöku-kauða,
króknaður nærri' í kulda' og neyð,
komin í sjálfan dauða.

77. Sárt er að vefja synda-hnút,
sjá má hér þess merkin.
Svona ganga sumum út
saurug myrkra-verkin.

78. Klæðin góðu falið fékk,
foldin orma dýnu,
fyrir ofan kistu, undir bekk,
og ein í rúmi sínu.

79. Fékk nú bónda falda norn,
föt með kærleik blíðan,
batt hann þau í bagga-korn,
og bar til kirkju síðan.

80. Lýsti hann enga launung á,
leggja, sagðist vilja,
hverjir ættu, hann bað þá,
hér um sig ei dylja.

81. Klæðin sagðist hafa hann,
í húsi fundið sínu,
en engann séð þar eignar-mann,
inni að gózi fínu.

82. Borgmeistarann biðja fer,
brjótur orma skara,
með hagleg ráð að hjálpa sér,
hvernig með skal fara.

83. Rínarelda-rjóður tér,
raunin brjóst vill spenna,
engin kenzl eg á þau ber,
en eitt vil eg þér kenna.

84. Skrafa við prestinn skjóma-grér,
skrýddan messu kjólnum,
bið hann að lýsa, bezt það er,
bagganum upp á stólnum.

85. Flest þá verður fólkið við,
fyrr en sermon bresti;
þakkar bóndi lítið lið,
og leggur nú að presti.

86. Í húsi mínu hrings hjá norn,
hitti' eg klæðnað fríðann,
batt eg hann í bagga-korn,
og bar hann hingað síðan,

87. Kem eg með hann kirkju til,
svo kunni hann fram að vísa,
upp á stólnum óska vil,
að honum gjörið lýsa.

88. Í ljós þá kann að leiða sig,
laufa einhver rjóður;
farið þér að því, fyrir mig
fallega! prestur góður.

89. Bóklesarinn birsti sig,
bað hann reglu gætti,
það kemur varla viður mig,
í veglegu prests embætti,

90. Frekur í ræðu framar tér:
falt ei þetta lét 'ann,
farðu strax og flýttu þér,
findu býfógetann.

91 Af honum fleirum orðum náð,
ei gat hann með sanni,
kreikar nú fyrir klerksins ráð,
og kemur að ríkis-manni.

92. »Berið þér kenzl á bagga vorn«?
bóndinn tér í lagi
»það eru falleg fata-korn,
fín, af skárra tagi«.

93. Sendir- ríkur -seima brátt,
svar á móti gefur:
»fata njóta eins þú átt,
og aflað þeirra hefur«.

94. Vildi heldur vera frí,
veitir kólgu bríma,
en koma þessi klæðin í,
kann ske nokkurntíma.

95. Býfógetans boðum þeim,
bóndinn vel nam svara;
á bagga sínum heldur heim,
og haglega þótti fara.

96. Naut svo þeirra náðum í,
og niftin frænings leira;
historían af hyski því,
hermir ekki meira.

97. Um klókskapinn og kænsku-par,
Cató forðum sagði:
kvað það vel, þó kæmi þar,
krókur á móti bragði.

98 Svo fór hér í sögðum leik,
seggja og vífs á milli,
viturlega vella eik,
vann þá meður snilli.

99. Hélt svo æru og hjóna-trygð,
heiðarlega með sóma,
en gabbið liðu um breiða bygð,
brjótar jötna-dóma.

100. Ekki skal mig undra neitt,
þó auma bresti varnir,
þá svo fá ráði sínu breytt,
sjálfir höfðingjarnir.

101. Það eg víst til þakka finn,
þeim sem skapaði' alla,
að ærleg stendur einfeldnin,
en oft stórvitrir falla.

102. Herrans náð oss verndar vel,
vesalinga sína,
satan sheims, og holdsins vél,
hann kann láta dvína.

103. Sá þeim öllum sigurinn vís,
seljum auðs og þegnum,
svo hólpnir komist heim með prís,
hörmungar í gegnum.
104. Óskar sá, sem erindin kvað,
ygg fyrir móins grunda,
Þorvaldi, sem þar um bað,
þægra lukku-stunda.
105. Biður hann að virða vel,
og vinsamlega mælir,
einlægur um þanka-þel,
þénustubúinn, sælir!

---

## Nokkrar esópiskar dœmisögur,

ortar af

*P. J, Vídalín*, sýslumanni í Dalasýslu.

1.

*Um hanann, sem fann gimsteininn.*

Haninn rótar haugi í,
og hittir perlu í sorpi því.
»Byggkorn,« segir hann, »betra er mér,
enn birtan sú, sem stendur af þér.
Heimskum lukkan hnossið oft í hendur ber.

2.

*Um hundinn og kjötstykkið.*

Hundurinn krás í kjafti ber,

komin að á, sinn skugga sér;
þann hyggst ræna, og þrífa' á loft,
þaut burt kjöt, en glenti hann hvoft.
Þá hugurinn mikið, höndin lítið hefir
oft

3.

*Um asnann og hvolpinn.*

Húsbóndinn við hvelp sér lék
honum klappar og líður brek;
það sér asni og í hans kné,
uppstökkur, en — slæst með tré.
Eigi er virt fyrir öllum eins, þó eitt
verk sé.

4.

*Krákan með lánsfjöðrum.*

Af fuglum öðrum krákan kæn,
í kyrtil sinn hlaut fiður með bæn;
en þegar dramblát sómdi sér,
sina burttók fjöður hver.
Valt er lansfé, krákan kvað, því kvíða
ber.

5.

*Um apann og refinn.*

Ref bað apinn, aftan ber,
einn lið gefa af rófu sér,
Þó yrði' eg að flytja'na færleik á,

foxið tér, þú skyldir ei fá.
Ágjarn vill við aumingjann af engu
sjá.

6.

*Um ljónið og refinn.*

Sjúku ljóni tóa tér,
sem teygja vildi' hana inn að sér:
»Eg hræðist spor, þau horfa inn,
en héðan engin liggja finn.«
Margt er að varast, vertu gætinn, vinur
minn.

7.

*Um trönuna og úlfinn.*

Trana' um kaup sitt talaði ein,
sem togaði úr kverkum úlfsins bein:
»Bjóstu,« sagði hann, »betra við?
beit eg ei af þér höfuðið«!
Hjálparmann að hafa tel eg hrekkjasið.

8.

*Um lækninn og þann dauða.*

Læknirinn í líkför manns,
lýsir því fyrir vinum hans:
Við vín ef hefði' hann ei lagt sitt lag,
lifa myndi hann enn í dag.
Ósvinnum koma eftirráðin illa' í hag.

9.

*Um húsfreyju og griðkonur.*

Húsmóðir, nær haninn gól,

hrakti upp þernur fyrir sól;
þær drápu hann, en héreftir
hálfu fyr hún vekja fer.
Margt fer stundum öðruvísi en ætlað
er.

10.

*Um magann og limina.*

Limirnir segja: »Letjumst vér
latur magi! að þjóna þér;«
Þegar neita þörfum hans,
þverruðu burðir líkamans.
Ósamþykkið auðnuleysi ollir manns.

11.

*Um apinjurnar.*

Apinjurnar dansa datt,
dúðaðar upp með silkið smátt;
þær neita skarti og synja seim,
nær sýnd voru fögur epli þeim.
Þó náttúran sé lamin með lurk, hún
leitar heim.

12.

*Um vaxið.*

Tígulsteinsins hátt upphaf,
og hörku fengna eldi af,
öfundar vax og fer á flakk
fram að glóð, og rann sem lakk.
Vittu að sníða vexti eftir vænan stakk.

13.

*Sér sjálfum næstur.*

Sætan átti sjúkan mann,
sér kaus dauða ef lifði hann.
Þegar hel sér þrengdi inn,
þarna' er, segir hún, maðurinn.
Hver finst næstur sjálfum sér, nær
sorg er stinn.

14.

*Um asnann, sem rasaði.*

Lúinn asni lötraði' um hlað,
sem lengi hafði og vel þjónað;
hann rasaði' um stein, en sá á sat,
með svipum keyrði' hann fast sem gat.
Svo launar margur sopna mjólk og
svelgdan mat.

15.

*Um músina og hrafninn.*

»Kæra mýsla!« krummi tér,
»kroppaðu snöru af fæti mér.«
Liðsemd músin lét í té,
losnaður henni slátraði.
Aldrei gott er oflaunað, nema illu sé.

16.

*Um refinn og krókódílinn.*

Kappskraf höfðu' um kynþátt sinn

krókódíll og refurinn.
»Ei þarf orðin,« tóa tér,
»teiknin gjörvöll skinnið ber.«
Af munni löngum merkjast kann, hver
maður er.

17.

*Um eikina og fleigana.*

Greinir trjánna garpurinn hjó,
og gilda fleiga sér tilbjó;
stundi eik, er átti föl
af eigin kvistum reyna kvöl.
Sárt er að líða af sér nákomnum sorg
og böl.

18.

*Um asnann, sem þrír áttu.*

Bræður erfðu asna þrír,
allir brúka vinnudýr;
þeir möttust um að metta hann,
í megurð af því deyja vann.
Úr dálega snýttu dreyrinn nefi detta
kann.

19.

*Um mýsnar og köttinn.*

Mýs samtóku svoddan ráð,
að sauma bjöllu á köttinn með þráð;
þá hver aðra' um þetta bað,

þorði enginn kisu að.
Hægra' er að kenna heilræðið enn halda
það.

20.

*Um hrafninn og úlfinn.*

Hrafn af úlfi heimtir krás,
því honum ætíð fylgdi' á rás.
»Áztu bráð, en ei gafst mér«,
úlfur talar, þá svo við ber.
Gættu að af hverju géði gjört sé þér.

21.

*Um gæsir og trönur.*

Gæsir og trönur eru með á,
engin veiðimanninn sá;
þungar gæsir fangast frí,
flugu margar trönur um bý.
Létt er þeim, sem laus flakkar, það
lærðu' af því.

22.

*Um gamminn og fuglana.*

Gammurinn fuglum gjörði í hag,
gestaboð á fæðingar dag;
ölvaða þar alla hann
óvart drap í læstum rann
Í vellystingunum voði' er nær enn
varir mann.

23.

*Um hœnuna, sem átti gulleggið.*

Húskarl átti hænu þá,
sem hvern dag fagurt gullegg á,
krufði' og ætlaði innra þar
sé undra gull, en fann ei par.
Fíknin spillir fengnum hlut, sem fyrir
var.

24.

*Um fjöllin jóðsjúku.*

Furðaði sig firða drótt,
fjöllin tóku létta sótt;
felmtrar líka fólkið þreytt,
fæddist músar greyið eitt.
Hlýst oft smátt af höggi því, sem hátt
er reitt.

25.

*Um pödduna.*

Paddan upp sér allri skaut,
ætlaði að verða stór sem naut.
»Þó þú springir, móðir með«!
mælti son, »það getur ei skeð.«
Heimskra manna hátt úr máta hugsar
geð.

26.

*Þrœtan um asnann.*

Asnann fundu ítar tveir

eignast vildu hann báðir þeir:
en sem þrátta þann um plóg,
þrammaði asni út á skóg.
Missast kunna kjörgripir fyrir kíf og róg

27.

*Um asnann sjúka.*

Fregn var að asninn féll í sótt,
fóru hundar að vitja'ns skjótt,
fölur sagði fljótt við þá:
færari er eg enn vilduð sjá.
Sum vilmæli eru svikum næst, það sést hér á.

28.

*Um krabbann.*

Krabbinn segir son sinn við:
»Sífelt gengur þú út á hlið.
Ef þín spor væru áfram sett,«
ansar hinn, »þá gengi eg rétt.«
Hver aðra síðar, sjálfur ræki sína stétt.

29.

*Um karlinn og dauðann.*

Karl örmæddur byrði ber,
og bað grátandi dauða sér;
kom þar dauði, en karl við brá,
og keyrði upp á sig bagga þá.
Dýrt er líf, og fagurt fjör, þá farast á,

30.

*Um mýsnar og köttinn.*

Kötturinn vært í kyrðum lá,

komu mýslur þetta' að sjá;
ein fer að kyssa kisu í stað,
kokkuð var hún strax í spað.
Oft er flagð í fögru skinni, forðastu
það.

---

*Efnisyfirlit.*


1. Hrakningssálmur af tveimur á bát frá Gufuskálum . . . . . . . 2
2. Hjartnæmt sorgarkvæði . . . 9
3. Ríma af enskum stúdent . . . 11
4. Jannesar-ríma . . . . . . . . . 31
5. Láka-kvæði . . . . . . . . 42
6. Einbúa-vísur . . . . . . . . 46
7. Bóndakonu-ríma . . . . . . . 50
8. Nokkrar Esopiskar dæmisögur. . 53


